# GALDRAKVER,

## EÐA HELDUR:

## LÝSING A ÝMSUM LISTUM,

TIL SKEMMTUNAR OG GAGNS.

---

REYKJAVÍK.

PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS.

# GALDRAKVER,

EÐA HELDUR:

# LÝSING Á ÝMSUM LISTUM,

TIL SKEMMTUNAR OG GAGNS.

ÍSLEIFUR EINARSSON
ÍSLENZKAÐI.

---

REYKJAVÍK.
Prentað hjá E. Þórðarsyni, á kostnað hans
og E. Bjarnasonar.
1857.

Kver þetta er hið fyrsta þessa efnis, sem prentað er á íslenzku, og mun það því vera flestum hjer á landi að miklu leyti ókunnugt; jeg skal fara fáeinum orðum um það.

Þess er þá fyrst að geta, að kver þetta er að mestu leyti tekið úr dönskum bækling, sem heitir: „Hexe- og Konstbog eller naturlig Magie“, og prentaður hefur verið hvað eptir annað; þar að auki hafði jeg við höndina fleiri samkynja bækur, sem jeg bar saman við bæklinginn, fór sumstaðar eptir, og tók nokkrar listir úr.

Kverinu er skipt í þrjá kafla:

1. eru listir, sem með spilum eru leiknar, eða spilagaldrar, er svo nefnast; svo eru
2. listir, sem að mestu leyti reikning þarf við, og seinast eru
3. listir, sem ýms efni eru höfð til, o. fl.

Um 3. listirnar er þess að geta, að samkynja í danska bæklingnum eru fleiri, sem jeg sleppti ýmist fyrir þá sök, að torvelt er að fá efnin til þeirra, og ýmist vegna þess, að jeg hjelt þær ekki almenningi skemmtilegar; við sumar af listum þessum eru og í danska bæklingnum fleiri aðferðir, en ein, eins og, t. d., við fyrstu listina af þeim, sem sagt er frá í kveri þessu, eða hina 21. af öllum listunum, og sýndist mjer óþarfi, að taka nema eina aðferð við hverja list. Hjer á ofan get jeg þess, að á sumum efnum fann jeg ekki íslenzk heiti, og eru gásalappir fyrir framan og aptan þau orð, sem ekki að öllu leyti eru íslenzk; en þar sem orð eru milli sviga, þá er það, víðast hvar, útlenzka

nafnið á íslenzka orðinu, sem er fyrir framan þá, og hef jeg sett það aptur og aptur, svo að ekki þurfi að leita að því annarstaðar í kverinu. Efnin til listanna má fá í lyfsölubúðinni, og sum í sölubúðum kaupmanna.

Menn þurfa ekki að láta sjer þykja kverið ískyggilegt, þótt galdrakver nefnist; öðru er nær, en það valdi hjátrú; að kverið er kennt við „galdra", er dregið af því, að menn, ef til vill, munu furða sig á sumum listanna í því, ef þeir sjá þær leiknar, og þær eru þeim ókunnar; allt fer fram á eðlilegan hátt, eins og menn munu komast að raun um, ef þeir leika einhverja list; flestir, ef ekki allir, munu og þekkja eitthvað til spilagaldra, er svo nefnast, og láta ekki nafnið hneyxla sig. Að skemmtun og gagn megi hafa af kveri þessu, mun mega fullyrða; það er, að líkindum, komið af því, að eitthvað þykir við bækur þessa efnis, að þær eru prentaðar hvað eptir annað í sumum öðrum löndum; margar eru þær listir, sem sagt er frá í kveri þessu, sem skemmta má bæði öðrum og sjálfum sjer með, eins og, t. d., spilalistunum, sem unglingar opt hafa gaman af, og sem kver þetta er einkum ætlað; en auk þessa er það æfing fyrir þá, að læra og leika sumar listirnar í kveri þessu, eins og, t. d., reikningslistirnar, og getur þannig, þegar á það er litið, orðið gagn að kveri þessu, sem og má segja um síðasta kaflann í því, ef menn vilja gjöra það, sem þar er sagt frá.

Ritað í septembermánuði 1856.

Ísl. Einarsson.

## YFIRLIT YFIR LISTIRNAR Í KVERI ÞESSU:

### I.

Listir, sem með spilum eru leiknar, eða spilagaldrar, er svo nefnast.

## II.
## Listir, sem reikning þarf við, o. fl.

## III.
## Listir, sem ýms efni eru höfð til, blönduð, og sem hafa einkennilegt eðli o. fl.

# I.

## Listir, sem með spilum eru leiknar, eða spilagaldrar, er svo nefnast.

1. Um það, hvaða brögðum þurfi að beita, til þess að geta gengið að því vísu, hvaða spil það er, sem dregið hefur verið, og segja til þess.

Tak spil og stokka þau; set þau síðan frá þjer, en gæt um leið að, hvert neðsta spilið er; seg svo einhverjum, að draga eitt spil úr spilunum, gæta að því, og láta ofan á spilin aptur; tak þau síðan og stokka einu sinni; lát þau í vinstri hönd þjer, og bökin á þeim snúa upp; legg nú með hægri hendinni eitt og eitt á borð (kistil eða eitthvað því um líkt), og það þannig, að myndirnar snúi upp, og lázt vera að telja. Þegar það spilið kemur, sem neðst var, þegar í fyrstu lagðir spilin frá þjer, þá set það spilið vandlega á þig, sem næst kemur, því að að því má ganga vísu, að það er spilið, sem dregið var.

Fáir segja til þess undir eins, heldur halda flestir áfram, sumir, þangað til öll spilin eru búin; þá taka þeir þau upp aptur, fletta þeim, og segja svo til spilsins; en aðrir hafa það enn margbrotnara: þegar þeir

eru búnir að telja öll spilin, eins og þeir látast gjöra, og taka þau upp aptur, þá fletta þeir þeim, og taka dregna spilið og annað, sem því er líkt, og stinga þeim inn í mið spilin þannig, að myndin á dregna spilinu og bakið á líka spilinu sjeu saman, en láta þau standa lítið eitt út; snúa þeir svo myndinni á líka spilinu að þeim, er dregið hefur, og spyrja hann, hvernig honum lítist á spil þetta, hvort það muni ekki vera spilið hans; neiti hann því, þá snúa þeir spilunum við í hendi sjer, svo að myndirnar snúi að sjálfum þeim, og ýta svo spilinu, sem nær þeim er, inn í spilin, en dregna spilið setja þeir á grúfu frá sjer; nú stokka þeir spilin vel og vandlega, draga svo eitt lítið eitt út, sýna á því myndina, og spyrja, hvort þetta sje ekki rjetta spilið; því verður eflaust neitað; spil þetta er svo látið hjá hinu, og á grúfu; síðan taka þeir þriðja spilið, og fara eins að. Nú fara þeir að bregða þeim, er dregið hefur, um aðgæzluleysi eða minnisleysi, og fullyrða, að spilið hans hljóti að vera eitt þessara þriggja; snúa þeir þeim síðan við, og segja: það er ekki til neins, að bera á móti því; spilið er þetta (tígulláttan eða hvaða spil, sem það er).

Önnur aðferð.

Taka skal ás, þrist, fimm, sjö og níu úr hjartanu, laufinu og spaðanum, og láta engan sjá eða vita af því; mjóa endanum á hjartanu, leggnum á laufinu og spað-

anum skal snúa upp eða niður, en eins á öllum spilunum, láta svo draga eitt spilið, og snúa hinum, sem menn hafa eptir í höndunum, svo við í þeim, að það, sem sneri upp, snúi niður; síðan er dregna spilinu smokkað inn í þau aptur; þegar búið er að því, skal stokka spilin vandlega, fara svo afsíðis, til að ná spilinu, sem snýr öðruvísi en hin öll spilin, því að það er dregna spilið.

---

2. Um það, hvernig megi komast að því, hvaða spil það er eða eru, sem einhver eða einhverjir hafa hugsað sjer, og segja svo til þess eða þeirra.

Hjer skal 3 aðferða getið, og eru þær þessar:

Fyrsta aðferð.

Á borð, stóra kistu eða þar sem nóg er rúm handa 20 spilum, eins og með þau þarf nú að fara, skal leggja þau upp í lopt, 2 og 2 hvert hjá öðru, og segja einum eða fleirum, að hugsa sjer einhver af þeim, sem saman eru, og muna þau; skal svo safna spilunum saman, taka hver 2 og 2 fyrir sig, leggja hver ofan á önnur, og láta eigi ruglast; síðan skal raða þeim í 4 raðir, eins og þessar tölur segja til:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1, | 20, | 9, | 13, | 2, |
| 16, | 8, | 12, | 7, | 19, |
| 17, | 5, | 11, | 6, | 14, |
| 4, | 15, | 10, | 18, | 3. |

Efsta spilið er lagt í sömu afstöðu til hinna spilanna, og talan 1 er í til hinna talnanna, næsta spilið í sömu afstöðu til hinna spilanna, og 2 er í til hinna talnanna, og svo hvert spilið á fætur öðru, eptir afstöðu 3, 4, 5, o. s. frv. En þegar þetta er búið, skal spyrja þann eða þá, sem hugsuðu sjer einhver 2 spilin, sem saman voru, í hvaða röð eða röðum spilin þeirra sjeu, og er þá auðvelt að segja til þeirra, því að svo er um hnútana búið; ef spilin, t. a. m., eru í efstu röðinni, þá eru þau fyrsta og seinasta spilið í henni; ef þau eru í röðinni, sem næst er hinni efstu, þá eru þau annað og fjórða spilið í henni, frá hvorri hendi sem talið er; ef þau eru í efstu röðinni og þeirri, sem næst er henni, þá eru þau annað spilið í efstu röðinni, þegar talið er frá vinstri hendi, og seinasta spilið í röðinni, sem næst er henni, þegar frá sömu hendi er miðað; þegar á allt er litið, þá segja sömu bókstafirnir til spilanna, sem saman voru, þannig settir:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| a, | k, | e, | g, | a, |
| h, | d, | f, | d, | k, |
| i, | c, | f, | c, | g, |
| b, | h, | e, | i, | b. |

## Önnur aðferð.

Tak nokkur spil, 6, 9, 12, 15, 18, 21 (eins og vant er), eða fleiri (að tölu, sem 3 ganga upp í), en

lát eigi verða vart við, hvað mörg þau eru, svo að eigi, ef til vill, fari svo, að galdurinn komist upp; þannig er bezt, ef tekið er úr heilum spilum, eða þeim, sem einhverjir viðstaddir vita, hvað mörg eru, að stinga spilunum, sem eigi eru höfð, t. a. m. í vasa sinn. Legg spil þau, sem tekið hefur, á 3 staði; lát vera jafnmörg á hverjum, og þau þannig, að hvert spil sje ofan á öðru; seg svo einhverjum, sem við er, að fletta sundur spilunum á einhverjum einum staðnum, og hugsa sjer þar eitt spil; tak síðan öll spilin úr hverjum stað, set þau, er valið var úr og hugsað sjer, í miðið, og legg þau aptur á 3 staði, eitt og eitt í einu; bið nú þann, er hugsaði sjer spil, að gæta að, á hverjum staðnum það lendir, og segja, hver hann sje, þegar búinn ert; tak þá spilin enn á ný, og far eins að, og þegar var sagt. Nú er auðgengið að hugsaða spilinu, og er það miðspilið á þeim staðnum, sem í miðið er, eða miðspilið af öllum spilunum, sem tekin voru í fyrstu til leiksins, þegar lögð eru svo saman, að spilin á staðnum, sem í miðið var, eru látin milli hinna; bezt er, að fara afsíðis, til að ná því, svo að síður þurfi að óttast, að galdurinn komist upp.

## Þriðja aðferð.

Tak nokkur spil, t. a. m. 9, legg í 3 raðir, og lát 3 vera í hverri; seg svo einum eða fleirum, að hugsa sjer eitthvert spil í þeirri og þeirri röð, sem þú til tekur,

og liggur þvers um; tak svo spilin upp, hverja röð fyrir sig, og raða aptur þannig, að þau, sem voru í efstu röðinni, verði í röð upp og niður, til vinstri handar, þau, sem voru í miðröðinni þvers um, verði í miðröð upp og niður, þau, sem voru í neðstu röðinni, verði í röð upp og niður, til hægri handar; lát svo segja þjer, í hverri röðinni, þvers um, hugsaða eða hugsuðu spilin sjeu, þegar spilin eru komin í þetta horf; nú er eigi um að villast: hafi, t. a. m., verið valið úr efstu röðinni, og spilið sje í miðröðinni eptir umbiltinguna á spilunum, þá er hugsaða spilið það spilið, sem næst er vinstri hendi.

Dæmi: Spilin, sem tekin voru í fyrstu, skyldu, t. a.m., vera ás, tvistur þristur, o. s. frv., allt að tíunni; þau skyldu, fyrir umbiltinguna, vera þannig sett:

| | | |
|---|---|---|
| Sjö. | Tvistur. | Sex. |
| Nía. | Ás. | Fjarki. |
| Fimm. | Átta. | Þristur. |

Nú skal bilta þeim svo um, að þau, t. d., fái þessa legu:

| | | |
|---|---|---|
| Tvistur. | Ás. | Atta. |
| Sex. | Fjarki. | Fimm. |
| Sjö. | Nía. | Þristur. |

---

3. Um það, hvernig megi raða svo spilum, að fáir sjeu þeir, sem taka eptir röðinni á þeim, en auðvelt

verði að muna hana, og segja til eins og eins spils fyrir sig, jafnóðum og einhver flettir þeim upp, sem fengin eru þau á grúfu.

Menn verða að hafa eitthvað, sjer til stuðnings, sem þeir geti farið eptir í þessu efni; það má, t. a. m., hafa leiðarvísir af fyrstu stöfunum í heiti hvers einstaks spils, eða raða spilunum svo eptir þeim, að ás sje efstur, þegar þeim er haldið á grúfu, þá átta, svo drottning, síðan fimm, o. s. frv.; en svo að sem erfiðast sje, að taka eptir röðinni á spilunum, eða ruglingurinn á þeim sýnist sem mestur, þá skal, t. d., taka fyrsta spilið, af tíglinum, annað af spaðanum, þriðja af hjartanu, fjórða af laufinu, fimmta af tíglinum, sjötta af spaðanum, o. s. frv.; bezt er að taka 4 spil, sitt af hverjum lit, t. d. tvistana, og láta litina á þeim vera í sömu röð, og fylgt er við niðurröðunina á hinum spilunum, eða eptir því, sem litirnir eru hjer áður nefndir, þá skal tígultvisturinn vera fyrstur, þá spaðatvisturinn, svo hjartatvisturinn, og síðan laufatvisturinn; þessi 4 spil skal þannig hafa í höndum sjer, og geta menn haft stuðning af þeim, þegar á að fara að segja til hinna spilanna, eins og eins, jafnóðum og þeim er flett.

Þegar búið er að raða 12 fyrstu spilunum, þá skal 13. spilið, eptir því, sem litirnir eru hjer nefndir, vera

spaði, og þá 14. hjarta, o. s. frv.; 25. spilið skal vera hjarta, og 37. lauf.

---

4. Um það, hvernig farið er að segja til eins og eins spils af spilunum, og láta bakið á því, sem sagt er til, snúa að sjer.

Taka skal ein spil, fara með út í horn, og láta þar eitt af þeim upp í lopt, ofan á hin spilin, þegar þeim er haldið á grúfu, og gæta um leið að, hvaða spil það er; meðan þetta er gjört, skal snúa sjer undan; en þegar það er um garð gengið, skal snúa sjer að þeim, sem við eru, og segjast ætla að sýna þeim list sína; skal þá snúa að þeim myndinni á því spilinu, sem snýr öðruvísi en hin, og segja þeim, hvaða spil það er; en meðan þetta er gjört, skal spilunum þannig haldið, að sá, er á þeim heldur, geti sjeð, hvert neðsta spilið er af hinum spilunum, sem eins snúa; skal setja það á sig; síðan skal fara með hendurnar aptur fyrir sig, og setja spil þetta ofan á eina spilið, sem snýr öðruvísi en hin, og láta það snúa eins og það; spil þetta skal sýna, og segja til þess, gæta að þriðja spilinu, o. s. frv.

---

5. Um það, hvernig megi ganga að vísum muninum á augunum á 3 spilum, sem tekin eru handa sjálfum sjer, og á öðrum 3, sem einhverjum eru fengin,

þegar sá hinn sami segir til þess, á hvaða tug augun á 3 spilunum hans eru, og það, sem þau vantar á hann, ekki talið með augunum á hinum spilunum. Hjer er fyrst að geta þess, að málspilin eru einungis talin með 2 augum, og ásarnir með 1; en um hin spilin er ekki að villast.

Þegar sá, er spilin voru fengin, hefur sagt til tugarins, sem augun á spilunum hans eru á, þá má ganga að því vísu, að sjeu augun á 3 spilunum hans á fyrsta tugi, þá kemur ákveðni munurinn fram, þegar sá, er spilin tók handa sjálfum sjer, dregur frá 10 augnatölnna á þeim; eins og ekki þarf annað en draga hana frá 20, sjeu augun á 3 spilum þess, er þau voru fengin, á öðrum tugi, og frá 30, sjeu þau á þriðja tugi.

Dæmi: Augun á 3 spilum þess, er þau voru fengin, skyldu vera:

1. á fyrsta tugi, t. d. 9;
2. á öðrum tugi, t. d. 14;
3. á þriðja tugi, t. d. 27;

en á 3 spilunum, er tekin voru handa sjálfum sjer, skyldu augun vera:

1. 21, þegar augun á hinum 3 spilunum voru á fyrsta tugi;
2. 19, þegar augun á hinum 3 spilunum voru á öðrum tugi;

3. 7, þegar augun á hinum 3 spilunum voru á þriðja tugi;

frá 10, 20, 30 á að draga 21, 19, 7:

| | | |
|---|---|---|
| 10 | 20 | 30 |
| 21 | 19 | 7 |
| -11 | 1 | 23 |

og er 11 munurinn á augnatölunni á spilunum, er tekin voru handa sjálfum sjer í fyrsta skipti, og augnatölunni á 3 spilum þess, er þau voru fengin í sama skipti, þegar það, sem þau vantar á fullan tug, er ekki talið með augunum á hinum 3 spilunum, o. s. frv., 1 í annað skipti, og 23 í þriðja.

---

6. Um það, hvernig farið er að leggja 12 spil svo í raðir, að 4 sjeu í hverri, þvers um, eða upp og niður.

Af 12 spilum eru 9 fyrst tekin, og 3 og 3 lögð í 3 raðir, hverja fyrir neðan aðra; en nú er eptir, að koma fyrir 3, sem eptir eru, og það svo, að 4 verði í hverri röð, hvort sem talið er þvers um, eða upp og niður; að því skal þannig fara: á spilið, sem efst er til vinstri handar, er fyrsta spilið látið, á miðspilið annað, og þriðja á spilið, sem neðst er, til hægri handar. Telji nú hver, sem vill; 4 eru í hverri röð, þvers um, eða upp og niður.

Ath. Þess er hjer að geta, að margar eru þær

spilalistir, sem hjer eru ekki nefndar; en margar þeirra eru þó byggðar annaðhvort á líkum brögðum, og hjer hafa verið við höfð, eða á því, að skorið er utan af nokkrum spilum í spilunum eða gjört far í þau, t. d. með nöglinni; við nokkrar listir hafa þeir, sem þær leika, annan mann, sem þeir láta segja sjer það, sem þeir vilja vita, t. d. með ýmsum bendingum.

## II.

## Listir, sem reikning þarf við, o. fl.

7. Um það, hvernig megi komast að því, þegar tveimur teningum er kastað, hvaða augu koma upp á þeim, hvorjum fyrir sig, og segja til þeirra, en líta þó ávallt undan.

Seg þeim, er kastaði teningunum, að tvöfalda tölu augans eða augnanna, sem upp komu á öðrum hvorjum teninganna, bæta síðan 5 við það, sem þá kemur út, og þá tölu, sem við það myndast, skuli hann margfalda með 5; þegar hann er búinn að því, þá lát hann bæta við töluna, er kom út við seinustu margföldunina, tölu augans eða augnanna, sem upp komu á hinum teningnum; bið hann nú að segja þjer, hvaða tala hafi komið fram við þessar hinar síðustu aðgjörðir; frá þeirri tölu skaltu draga 25, og verður þá að vera eptir, hafi allt verið rjett reiknað, tala með 2 tölustöfum í; en tugastafurinn er tala augans eða augnanna, sem komu upp á öðrum teningnum, og einingastafurinn sú, sem kom upp á hinum, þegar teningunum í fyrstu var kastað.

Dæmi: Á teningunum skyldi, t. a. m., koma upp 2 og 6; nú á sá, er kastaði, að tvöfalda annaðhvort 2 eða

| | |
|---|---|
| 6; hann skyldi tvöfalda 2, og eru það . . | 4; |
| við 4 á hann að bæta . . . . . . . . | 5; |
| verða . . . . . . . . . . . . . . | 9; |
| 9 á hann að margfalda með . . . . . | 5; |
| koma út . . . . . . . . . . . . . | 45; |
| við 45 á hann að bæta tölu augnanna á hinum teningnum eða . . . . . . . . | 6; |
| verða . . . . . . . . . . . . . . . | 51, |
| og frá 51 á að draga . . . . . . . . . | 25; |
| verða þá eptir . . . . . . . . . . . | 26; |

og er tugastafurinn (2) tala augnanna, sem kom upp á öðrum teningnum, en einingastafurinn (6) sú, sem kom upp á hinum.

---

8. Um það, hvaða brögðum þurfi að beita, til þess að geta gengið að því vísu, þegar einhver heldur á kvörnum, eða einhverju því um líku, í höndum sjer, í annari á jafnri tölu, í hinni á oddatölu[1], — í hvorri hendinni, hvor um sig, jafna talan og oddatalan sje.

Bið þann, er heldur á kvörnunum í höndum sjer, að margfalda tölu kvarnanna, sem eru í hægri hendi hans, með einhverri oddatölu, en tölu þeirra, sem eru í vinstri hendinni, með jafnri tölu, og lát hann síðan

[1]) Jöfn tala er sú tala, sem 2 ganga upp í, en oddatala er sú tala, sem ekki hefur það einkenni.

segja þjer, hvaða tala komi út, þegar hann leggi tölurnar saman, sem komu út við þessar margfaldanir; sje það jöfn tala, þá er jafna talan í hægri hendi hans, og oddatalan í vinstri, en sje það oddatala, þá er jafna talan i vinstri hendi hans, og oddatalan í hægri.

Dæmi:

| | í hægri hendi | | í vinstri hendi |
|---|---|---|---|
| 1. tölur kvarnanna, sem faldar eru, skyldu vera . . . . . | 18 | og | 7, |
| og tölurnar, sem þessar tölur eru margfaldaðar með, . . | 3 | og | 2; |
| koma út . . . . . . . . . | 54 | og | 14; |

úr 54 og 14 saman lögðum verða 68, og er það jöfn tala, sem, eins og áður er sagt, er vottur þess, að jafna talan er í hægri hendi þess, sem fól kvarnirnar, en oddatalan í vinstri.

| | í hægri hendi | | í vinstri hendi |
|---|---|---|---|
| 2. tölur kvarnanna, sem faldar eru, skyldu vera . . . . . | 7 | og | 18, |
| og tölurnar, sem þessar tölur eru margfaldaðar með, . . | 3 | og | 2; |
| koma út . . . . . . . . | 21 | og | 36; |

þegar 21 og 36 eru lagðir saman, þá verða úr þeim 57, sem er oddatala, og er það vottur þess, að hjer eigi sjer stað hið gagnstæða því, sem var í fyrra dæminu.

Ath. Dæmi þessi sýna, að þegar jöfn tala er margfölduð, hvort sem heldur er, með jafnri tölu eða oddatölu, þá kemur út jöfn tala; en sje oddatala margfölduð með oddatölu, þá kemur út oddatala.

---

9. Um það, hvernig megi komast að því, hvaða maður hafi tekið hring, á hvorja höndina hann hafi látið hann, fingur og lið, og það þótt milli margra manna sje að velja, og litið sje undan, meðan hringurinn er tekinn.

Hjer er fyrst að segja frá dálitlum undirbúningi: klippa skal niður miða, eins marga og mennirnir eru, sem við eru, merkja þá með tölustöfunum 1, 2, 3, 4, 5, 6, o. s. frv., í röð upp eptir, og láta síðan hvern mann draga einn miða, sem á að tákna, hver hann sje í röðinni.

Þegar þessu er lokið, lítur sá, er ætlar að sýna kunnáttu sína, undan; tekur þá einhver hinna, er miðana hafa dregið, hringinn, og lætur hann á sig, eins og í fyrirsögninni segir; nú snýr maðurinn, er listina kann, sjer við aptur, og skýrir frá því:

„að vinstri höndina skuli telja á undan hinni hægri, eða tákna hina fyrri með 1, en hina síðari með 2; fingurna skuli byrja að telja á litla fingri á vinstri hendi, eða það skuli takna hann með 1, en enda skuli á sama fingri á hægri hendi, sem því eigi að

tákna með 5; fremsta liðinn skuli telja fyrstan, og tákna með 1, en efsta með 3".

Nú biður maðurinn, er listina kann, þann, er hringinn tók, að reikna með sjálfum sjer, og segja sjer, hvað út komi, þegar hann

„fyrst margfaldi töluna á miða sínum með 2; bæti við það, er þá kemur út, 8; margfaldi þá með 5, og bæti 47 við, og svo tölunni, er táknar höndina; margfaldi síðan með 10, og bæti 6 við það, er þá kemur út, og svo tölunni, er táknar fingurinn; margfaldi þá með 10; bæti svo 5 við, og seinast tölunni, er táknar liðinn".

Þegar manninum, er listina kann, er sagt til tölunnar, er út kemur, skrifar hann hana hjá sjer, og dregur frá henni töluna 8765; en af tölu þeirri, er þá kemur út, og að minnsta kosti verður að vera 4 tölustafir, sjer hann, hver sá er í röðinni, er hringinn hefur tekið, á hvorja höndina hann hefur sett hann, fingur og lið; og er þá að geta þess, að aptasti tölustafurinn taknar liðinn, næsti tölustafur fingurinn, en höndina táknar sá tölustafur, er þá kemur, og það, sem þá er eptir af tölunni, táknar töluna á miða þess, er hringinn tók.

Dæmi: Á miða þess, er hringinn tók, skyldi vera talan 19, og hann skyldi hafa látið hann á 3. lið vísifingurs á hægri hendinni; nú á fyrst að marg-

falda . . . . . . . . . . . . . . . . 19
með . . . . . . . . . . . . . . . 2;
koma út . . . . . . . . . . . . . . 38;
við 38 á að bæta . . . . . . . . . . 8;
verða . . . . . . . . . . . . . . . 46;
46 á að margfalda með . . . . . . . . 5;
koma út . . . . . . . . . . . . . . 230,
og við 230 á að bæta . . . . . . . . 47;
verða . . . . . . . . . . . . . . . 277;
nú á að bæta við tölunni, er táknar
höndina . . . . . . . . . . . . . 2;
verða . . . . . . . . . . . . . . . 279;
279 á að margfalda með . . . . . . . 10;
koma út . . . . . . . . . . . . . . 2790,
og við 2790 á að bæta . . . . . . . 6;
verða . . . . . . . . . . . . . . . 2796;
við 2796 á að bæta tölunni, er tákn-
ar fingurinn, eða hjer . . . . . . . 2;
verða . . . . . . . . . . . . . . . 2798;
2798 á að margfalda með . . . . . . 10;
koma út . . . . . . . . . . . . . . 27980;
við 27980 á að bæta . . . . . . . . 5;
verða . . . . . . . . . . . . . . . 27985,
og við 27985 á að bæta tölunni, er
táknar liðinn, eða hjer . . . . . . . 3;
verða . . . . . . . . . . . . . . . 27988;

fluttir 27 9 8 8;
frá þessari tölu dregur listamaðurinn . . . . . . . . . . . . 8 7 6 5;
verða þá eptir . . . . . . . . . 19 2 2 3;
(19: talan á smiðanum. 2: hönd; 2: fingur; 3: liður;)

---

10. Um það, hvaða brögðum þurfi að beita, til þess að geta sagt til þess, sem út kemur, þegar einhver hefur hugsað sjer einhverja tölu og honum er sagt, að gjöra ýmislegt við hana.

Fyrst skal segja þeim, er hugsaði sjer töluna, að tvöfalda hana, bæta svo við það, er þá kemur út, einhverri tölu, á sama stendur hvaða tala það er; þá tölu, er myndast við þessar hinar síðustu aðgjörðir, skal segja að helminga; frá helmingnum skal segja að draga hugsuðu töluna; má þá ganga að því vísu, að þá er eptir helmingurinn af tölunni, sem sagt var að bæta við hugsuðu töluna tvöfaldaða.

Dæmi: Hugsaða talan skyldi vera . . . . 4;
4 tvöfaldaðir eru . . . . . . . . . . . 8;
við 8 skyldi vera sagt að bæta, t. d., 14;
verða . . . . . . . . . . . . . . . 22;
22 helmingaðir eru . . . . . . . . . 11,

og þegar hugsaða talan, hjer 4 eru dregnir frá 11, koma út . . . . . . . . . . . . 7, og eru 7 helmingurinn af 14.

---

11. Um það, hvernig megi komast að því, hvaða tala það er, sem einhver hefur hugsað sjer, og segja svo til hennar.

Þeim, sem hefur hugsað sjer töluna, skal segja að tvöfalda hana, bæta svo við 4, margfalda þá með 5, bæta síðan 12 við, og margfalda með 10 þá tölu, er myndast við samlagning þessa; þegar hann er búinn að því, skal spyrja hann, hvaða tala hafi komið ut við síðustu aðgjörðir; þegar hann hefur sagt til hennar, skal draga frá henni 320, og kemur þá út tala með 00 aptast, og er þá eigi annað að gjöra, en taka þau burt, og þá kemur fram talan, sem hugsuð var.

Dæmi: Hin hugsaða ta'a skyldi vera . . . 7;
7 tvöfaldaðir eru . . . . . . . . . . 14;
4 lagðir við 14 eru . . . . . . . . . 18;
18 margfaldaðir með 5 eru . . . . . . 90;
90 og 12 eru . . . . . . . . . . . . 102;
102 margfaldaðir með 10 eru . . . . . . 1020,
og þegar 320 eru dregnir frá 1020,
verða eptir . . . . . . . . . . . . . 700,
og er þá, eins og áður er sagt, ekki annað að gjöra, en taka 00 burt, svo að hugsaða talan komi fram.

---

12. Um það, hvernig megi láta hið sama koma út hjá tveimur mönnum, sem, hvor í sínu lagi, hafa hugsað sjer tölu.

Seg báðum að margfalda tölu sína með 4, helmínga það, sem þá kemur út, margfalda helminginn með 16, og svo tvöfalda töluna, er þá kemur út, og þegar þeir eru búnir að því, þá lát þá deila tölunni, er þeir seinast fengu, hvor um sig, með tölunni, er þeir, hvor í sínu lagi, hugsuðu sjer í fyrstu.

Dæmi: Tölurnar, sem þeir, hvor fyrir sig, hugsuðu sjer, skyldu vera . . . . . . . . . 46 og 5; þegar þessar tölur eru margfaldaðar með 4, koma út . . . . . . . . 184 og 20; helmingar þessara talna eru . . . 92 og 10, sem á að margfalda með 16, og koma þá út . . . . . . . . . . . 1472 og 160; þessar tölur tvöfaldaðar eru . . . 2944 og 320; nú er eptir að deila þessum tölum með tölunum, er mennirnir, hvor um sig, hugsuðu sjer, eða fyrri tölunni með 46 og hinni seinni með 5; koma þá út á báðum stöðum . 64, og er það, eins og það á að vera.

---

13. Um það, hvernig megi komast að því, hvaða hlut 3 menn, hver um sig, hafa tekið af 3 hlutum, sem þeim er lofað að skipta milli sín í einrúmi.

Hlutirnir skyldu, t. a. m., vera hringur, dósir og hnífur, og skal einkenna þá hjá sjer, hinn fyrsta með stafnum A, annan með E, og hinn þriðja með I, og einnig skal einkenna mennina, hvern fyrir sig, með 1, 2, 3; síðan skal taka 24 kvarnir (baunir eða eitthvað því um líkt, sem fyrir hendi er), og gefa 1 kvörn manninum með einkenninu 1, 2 manninum með einkenninu 2, og 3 hinum síðasta; þær, sem eptir verða, skal leggja þar, sem auðgengið er að þeim.

Nú skal líta undan, eða heldur fara inn í annað herbergi, svo að mönnunum gefist færi á, að skipta hlutunum milli sín í næði; en hvort sem heldur gjört er, litið undan eða farið inn í annað herbergi, skal segja: að sá, er hafi tekið hringinn, skuli bæta við sig eins mörgum kvörnum, og hann hafi undir; sá, er hafi tekið dósirnar, skuli bæta við sig tvöfaldri tölu kvarnanna, er hann hafi undir, og sá, er hafi tekið hnífinn ferfaldri tölu kvarnanna, er hann hafi undir.

Þegar allt þetta er um garð gengið, skal ganga þangað, sem kvarnirnar voru, og kasta tölu á þær, sem eptir hafa orðið, og verða þær að vera 1, 2, 3, 5, 6 eða 7, og eru hjer 6 latinsk orð:

„sALvE, cERtA, ANImÆ, sEmItA, vItA, qvIEs“[1],

[1]) Þessi orð þýða: 1. sæll eða sæl sjertu; 2. í gjöranda eintölunnar í karlkyni, sem er certus, ákveðinn, á-

sem á að hafa stuðning af, til þess að geta sjeð, hvern hlutinn hver hefur tekið; sje ein kvörn eptir, þá er að aðgæta fyrsta orðið, eða röðina á stöfunum í því, sem stærri eru, og á hún að sýna, að maðurinn, með einkenninu 1, hefur hlutinn, sem einkenndur var með A, eða hringinn; sá, sem einkenndur var með 2, hlutinn E eða dósirnar; maðurinn, með einkenninu 3, hefur því hlutinn I eða hnífinn, o. s. frv.; t. a. m.: sjeu 5 kvarnir eptir, þá er að athuga orðið sEmItA, eða fara eptir röðinni á stöfunum E, I, A, sem sýna fyrsta manninn með E, annan með I, þriðja með A.

---

14. Um það, hvernig eigi að koma svo ár sinni fyrir borð, að annar, sem keppt er við, geti ekki nefnt 100, þegar byrjað er fyrir neðan 10, og aldrei hlaupið yfir meir en tug.

Til þess að geta unnið þann, er keppir við þig, eru það nokkrar tölur, er þarf að muna; en þær eru þessar: 1, 12, 23, 34, 45, 56, 67, 78, 89, og er auðvelt að muna þær, því að þær byrja á 1, og vaxa svo ávallt um 11; þessum tölum skaltu vandlega halda undir allri keppninni; byrjir þú, þá seg fyrst 1, og verður þá mótstöðumaðurinn að koma með einhverja tölu fyrir neðan 12, því að hann má ekki hlaupa yfir

reiðanlegur; 3. í gjöranda eintölunnar, sem er anima, önd; 4 stigur; 5. líf; 6. hvíld.

tug; segji hann, t. d., 8, þá seg 12; segji hann þá 13, þá seg 23, o. s. frv.; en byrji mótstöðumaðurinn, þá er ekki að hugsa til að vinna, nema því að eins, að hann kunni ekki aðferðina, og sjái ekki út úr brögðum þeim, sem beitt er við hann.

---

15. Um það, hvernig eigi að fara að, og hvaða brögðum þurfi að beita, til þess að geta gengið að tölu vísri, sem 4 menn hafa hugsað sjer, sinn í hverri röð.

Setjum svo, að 4 menn væru staddir í húsi hjá Jóni nokkrum; einn þeirra hjeti Árni, annar Bjarni, þriðji Davíð, fjórði Einar; Jón skyldi stinga upp á því við gesti sína, að þeir fyndu upp á einhverju, sjer til skemmtunar; þeir skyldu segja, að þeir vissu ekki, hvað það ætti að vera; en þá skyldi Jón bjóða þeim, að segja hverjum þeirra til tölu, sem þeir hugsuðu sjer; þessu boði skyldu þeir taka; segir þá Jón þeim, að setjast niður við borð, Árna og Davíð við endana, en Bjarna og Einari við hliðarnar; síðan ritar Jón nokkrar tölur, með krít, á borðið; skal hjer sýnt, hvernig gestirnir sitja við borðið, hvaða tölur Jón ritar á það, og hvernig þær eru settar:

Bjarni.
12,
1,
7,
9.
Árni. 14, 15, 11, 6. .3, 5, 10, 13. Davíð.
8,
16,
4,
2.
Einar.

Árna segir Jón, að hugsa sjer einhverja hinna 4 talna, sem næstar honum eru; sama segir hann og hinum þremur; en þegar þeir segjast vera búnir að því, þá fær Jón sjer blað og eitthvað, til þess að rita með á það, skrifar upp allar tölurnar, og það í þeirri afstöðu, sem þær eru í, sín á milli, á borðinu; þurkar hann svo tölurnar af því, og skrifar þær aptur á það, en setur þær allt öðruvísi: tölurnar 4, er næstar voru Árna, setur hann í miðið, í legu talnanna 6, 9, 3, 8; við hliðina á þeim, eða í legu talnanna 11, 7, 5, 16, ritar hann þær tölurnar 4, sem næstar voru Bjarna; þar sem tölurnar 15, 1, 10, 4 voru, skrifar hann tölurnar 4, er Davíð voru næstar; en yztar lætur hann vera þær 4 tölurnar, er Einars megin voru; lítur nú allt þannig út:

Bjarni.
8,
3,
12,
14.

Árni. 2, 13, 9, 6. 15, 1, 5, 16. Davíð.

11,
7,
10,
4.
Einar.

Nú biður Jón Árna að segja sjer, í hverri þessara 4 raða talan, sem hann hafi hugsað sjer, sje; það gjörir Árni, og bendir Jón honum þá á töluna, sem næst er miðjunni, í þeirri röðinni; Bjarna, er segir Jóni til raðarinnar, þar sem hans tala er, bendir hann á 2. töluna, næst miðjunni, í þeirri röðinni; Davíð bendir hann á næst yztu töluna í þeirri röðinni, sem hans tala er í, og Einari á yztu töluna í þeirri röðinni, þar sem hans tala er, og hlýtur allt þetta að standa heima, hafi enginn ruglingur orðið, þegar tölunum var bilt um.

---

16. Um það, hvernig ferjumaður eigi að flytja svo tóu, lamb og meis, sem hey er í, á bát yfir um á, að hann geti sjeð um, að tóu gefist aldrei færi á, að bíta lambið, og lambinu ekki, að eta heyið.

Fyrst skal ferjumaður flytja lambið yfir um ána; síðan skal hann sækja meisinn, og fara með yfir, en taka þá lambið með sjer yfir um aptur, skilja það eptir, og flytja tóu yfir um, til meissins; að lokunum fer hann með tóman bátinn yfir um aptur, til að sækja lambið, og flytja yfir um í annað sinn.

17. Um það, hvernig megi skipta 8 mörkum, jafnt í sundur, með 5 marka mæli og 3 marka mæli.

Fyrst skal fylla 3 marka mælinn, og hella svo úr honum, og í 5 marka mælinn; síðan skal fylla 3 marka mælinn í annað sinn, og fylla þá úr honum 5 marka mælinn, og er þá eptir 1 mörk í 3 marka mælinum; úr 5 marka mælinum skal nú hella öllu í ílátið, sem 8 merkurnar voru í í fyrstu; en í 5 marka mælinn skal hella 1 mörkinni úr 3 marka mælinum, fylla þá 3 marka mælinn úr ílátinu, og hella aptur úr honum saman við 1 mörkina í 5 marka mælinum; þannig eru komnar tvennar 4 merkur, önnur í ílátinu, en hin í 5 marka mælinum.

18. Um það, hvaða brögðum víkingur nokkur, sem staddur var í lífsháska, beitti, til þess að geta látið hlutkesti, er varpað var um líf hertekinna manna, er á skipinu voru, falla að vild sinni.

Á skipi víkingsins voru 30 herteknir menn, 15

